


IV. Winnipeg, Man. Nr. 1.

# Kaldeumenn hinir fornu.

Það er hálfskrítið, hvernig menn hugsa sér guðlega opinberun stundum og hvernig menn hafa hugsað sér hana um þessar liðnu aldir. Menn hugsa sér, að Gyðingar séu hin elsta þjóð í heiminum, og væri það ekki svo, þá hlytu menn að verða forvitnir um það, hverju hinar þjóðirnar hafi trúað, sem lifðu í heiminum á undan Gyðingum. En það er eins og þessir menn hafi ekki hugmynd um neina aðra þjóð í heiminum en Gyðinga, þennan flokk þræla, sem braust út af Egyftalandi undir forustu Mósesar. Einhverjir hafa þó hlotið að vera feður og forfeður þeirra.

Nú á seinni tímum hafa menn verið að grafa upp leifar fornrar menningar, leifar og menjar þjóðflokka í Euphratsdalnum, sem er miklu eldri en Gyðingar. Og kyrkjan hefir gripið tækifærið til þess, að nota þessar menjar og sanna með þeim biblíuna. Af því að hinar yngri af leifum þessum sanna ýmislegt í ritningunni, sem menn áður höfðu ekki vitneskju um, þá ætla þeir, að þar hafi þeir fengið staðfesting fyrir guðlegum innblæstri ritningarinnar. En þessir menn hafa ekki gert sér fulla grein fyrir því, hvað þeir voru að fara með. Þeir sýna, að sömu hugmyndirnar sem fram koma í ritningunni hafi verið til löngu áður í Euphratsdalnum. En með því er það svo langt frá því, að guðdómlegur innblástur ritningarinnar sé sannaður, að þetta gengur einmitt út á að sanna það, að Gyðingar séu ekki höfundar að þessum hugmyndum, sem ritningin flytur mönnum, heldur önnur þjóð, sem bygði Euphratsdalinn löngu áður en nokkur Gyðingur var til. Það er því ekkert fagnaðarefni fyrir

hina rétttrúuðu bræður vora, að þessar óláns fornmenjar skyldu finnast og verða mönnum kunnar, ef að þær yrðu til þess, að sýna það, að hinar allrakristilegustu hugmyndir og trúarskoðanir ritningarinnar, eiga uppruna sinn að rekja til gersamlega heiðinna þjóða, sem kristnir menn kalla; að það eru skoðanir manna, sem trúðu á guði í hundraða eða þúsundatali.

Ritningin, hin heilaga bók trúmannanna — þessar æfagömlu og mjög merkilegu þjóðsögur, að skoðun vantrúarmannanna — segir oss svo ljóslega frá Gyðingum, að vér getum rakið ættir þeirra alla leið frá dögum Krists og upp til hins fyrsta Gyðings, Abrahams. Á undan Abraham var þjóðin ekki til.

Nú vitum vér, hvaðan Abraham kom. Hann kom að frásögn ritningarinnar frá Úr í Kaldeu, og er það álit manna, að hann hafi farið þaðan vegna trúarskoðana sinna, að hann hafi verið "reformator," siðbótarmaður, frjálslegri í trúarskoðunum sínum en trúbræður hans sem þar voru.

Vér vitum nú vel hvar staður þessi, Úr, hefir verið. Vér vitum nú orðið allmikið um hagi og siðu og átrúnað þjóðar þeirrar, er þar hefir búið, því að árlega er verið að grafa þar í rústum gamalla borga og finna menn þar heilar og hálfar hallirnar, alsettar rúnaletri á veggjunum. Borgir þær eru því nær eingöngu bygðar úr tígulsteini og er varla nokkur sá steinn, að ekki sé hann merktur fangamarki konungs þess eður höfðingja, er þá var ríkjandi. Má þar því rekja eina konungaættina fram af annari, miklu lengra en menn með vissu hafa nokkurn tíma komist hjá öðrum þjóðum. Menn þekkja nú orðið jafnvel nöfn konunga og ríkisár þeirra, sem lifað hafa 3800—4000 árum fyrir Krists burð. Menn hafa meira að segja fundið þar leifar af nokkurskonar bókasöfnum, sem stofnuð hafa verið nálægt 2000 árum fyrir Krist. Eru bækur þær steintöflur og skorið á letur. Er letur þetta undarlegt, einlægir þríhyrndir fleygar, og var það lengi að menn gátu ekki lesið það. En nú er sá örðugleiki yfirstiginn og geta menn nú lesið það eins og hvert annað útlent mál. Þessar töflur segja frá háttum og venjum, trúbrögðum og hugmyndum þessara þjóða, sem lifðu þarna í Euphratsdalnum endur fyrir löngu, Vér getum þar séð guðshugmyndirnar, sem koma fram seinna í ritningunni, vér getum lesið þar heilar sögurnar, stundum svo að segja orð fyrir orð, sem sagðar eru í bókum gamlatestamentisins, eins og seinna skal skýrt frá. En það er svo langt frá að þær sanni guðdómlegan eða bókstaflegan innblástur ritningarinnar, að þær einmitt ómótmælanlega sanna hið gagnstæða. Vér skulum taka eitt dæmi til skýringar. Það var lengi siður íslenzkra

presta að fá ræður einn hjá öðrum sér til léttis, svo að þeir kæmust hjá að hugsa eða skrifa eins mikið, veslingarnir! Þetta varð svo alment, að ræður gamalla presta, sem höfðu haft orð á sér, gengu sölum milli klerka, og á uppboðsþingum seldust þær ærnu verði. Vér náðum einu sinni í einn þennan árgang og þóttumst góðir að geta gripið til hans í viðlögum í þá daga; en það var galli á gjöf Njarðar, því að ræðurnar voru ritaðar illa læsilegri fljótaskrift og var því stundum óumflýjanlegt að hætta kanske í miðri setningu, eða hlaupa yfir blað, eða slá í botninn og segja amen. En fólk tók ekkert eftir þessu, það var því betra sem það var óskiljanlegra.

En nú skulum vér koma með dæmið. Ef að vér kæmum með ræðu, sem einhver hefði heyrt heima á Íslandi fyrir 30—40 árum, hvernig í ósköpunum gætu menn farið að færa það sem sönnun fyrir því, að vér hefðum samið ræðuna, að hún var til orðin áður en vér fórum fyrst að skrifa nokkra ræðu, kanske áður en vér urðum til? En þetta er sönnunaraðferð sú sem kyrkjumennirnir viðhafa, þegar þeir eru að sanna guðdómleik ritningarinnar með fornleifum þeim, sem finnast hjá Kaldeumönnum í Euphratdalnum.

Þarna var Abraham og forfeður hans. Trú landsmanna hefir óefað verið trú þeirra. Og þegar þeir Abraham og ættfólk hans flytjast þaðan burtu, þá hafa þeir, sem eðlilegt var, flutt með sér meira og minna af trúarskoðunum, hugmyndum og þjóðsögum þeirra. Alveg eins og Íslendingar fluttu með sér sögur úr Noregi, alveg eins og vér Íslendingar hér vestan hafs höfum flutt með oss hugmyndir og sögur heiman af Íslandi. Þó að þjóðirnar flytjist úr einu landi í annað, úr einni álfu heims í aðra, og þó að hundruð eða kanske þúsundir ára líði, þá má þó finna sömu sögurnar hjá þjóðunum og hinir gömlu forfeður þeirra höfðu. Sem dæmi má taka sumar sögurnar úr þjóðsögunum íslenzku, t. d. söguna um Mjaðveigu Mánadóttur og allan þann flokk skyldra sagna; söguna um þjófinn, sem öllu gat stolið og margar fleiri, og sýna þær það óhrekjanlega, að þessar sögur hafa verið fluttar, ekki einungis frá Noregi með landnámsmönnum, heldur alla leið að austan úr hálöndum Asíu, frá þeim tíma, þegar hin mikla aryanska þjóð lifði þar, áður en hún tvístraðist löngu fyrir upphaf hinnar sögulegu aldar.

Vér skulum því ekki furða oss á því, þó að Gyðingar hafi flutt með sér eitthvað af sögum og hugmyndum og trúarskoðunum feðra sinna; eða þó að vér sjáum í ritningunni sömu skoðanir og voru ríkjandi löngu áður í Euphratsdalnum. En ef að vér gætum vel að, þá munum vér sjá, að margt í Gyðingatrúnni er leifar af átrúnaði hinna heiðnu Kaldeumanna.

Ég ætla nú að reyna að gefa mönnum hugmynd um þetta. En ég bið menn þegar að verða ekki óþolinmóðir, þó að ég fari hægt yfir, það "gengur þótt hægt fari" segja menn. Þetta er og svo óvanalegt fyrir menn, að heyra þetta, að menn þurfa að átta sig á því,—átta sig á því, að Gyðingar eru ekki og hafa aldrei verið hin eina þjóð í heiminum. (Framhald.)

---

## Gildi Gamlatestamentisins.

(Athugasemdir við "Aldamót" 1893).

Framhald.

Þá tekur höf. fyrirlestursins sér næst fyrir hendur, að verja lögmál Mósesar, og fer þar um mörgum fögrum orðum. Hann byrjar með því, að kvarta um tímaleysi og segir sér sé "ekki unt að koma með nema fáeinar bendingar." Hann tekur því ekki hvert eitt atriði eða grein í þeim til að verja, heldur að eins fáein atriði, en þau eiga að sýna, að hitt alt sé heilagur sannleiki. Þetta er nú að vissu leyti gott, en þó kann sumum að þykja varnaraðferð sú ónóg til fullra úrslita. Þó að t. d. einhverjum tækist að verja bardagana og styrjaldirnar sem Gyðingar áttu í við aðrar þjóðir, þá geta menn ekki tekið það sem vörn fyrir því, er Móses sökti þeim Kóra, Datan og Abiram niður í afgrynnið. Ef að bandingi einn er kærður um þjófnað og þar á ofan um morð, þá er engin vissa fyrir því að hann sé sýkn af morðinu, þó að hægt sé að sanna hann sýknan af þjófnaðinum.

Séra Fr. segir um löggjöf Mósesar, að "heilagleiki, réttlæti og kærleikur sé hinn þríþætti rauði þráður, er gangi í gegnum alla þessa löggjöf." Þykir mér hér farið æði geyst af stað, og ef að hann sannar þetta, þá vil ég gersamlega leggja árar í bát með allar aðfinningar. En til þess að sanna þetta, finst mér þurfa að snúa við réttlætishugmyndinni og segja, að morðverk séu kærleikur, að rán sé réttlæti og lostalifnaður heilagleiki. Hver sem leggur sig niður við það, að lesa sögu Gyðinga og löggjöf Mósesar, getur séð þetta undir eins. Þessi staðhæfing kyrkjumannanna dugir að eins við þá, sem eru orðnir svo hræddir og hugdeigir, eru búnir að tapa svo virðingunni fyrir ritningunni,trúnni á sannleika þeim er hún flytur, eru orðnir svo efandi, að þeir þora ekki að líta í hana af ótta fyrir því, að þá muni helgreipar vantrúarinnar hremma þá.

Höf. fyrirlestursins byrjar á 13. kap., í 5. Mósesbók, til þess að sýna, að skurðgoðadýrkunin sé aðalglæpurinn, sem Gyðingum þurfi

að refsa fyrir. Ég er nú ekkert að fetta fingur út í það, en læt það liggja millum hluta svona fyrst um sinn að minsta kosti. En það er lagaboð Mósesar í 13. kap., sem ég ætla að tala um. Þar er fyrst talað um spámenn eða draumspekinga: "Ef að þeir gefi Gyðingum teikn og stórmerki og ef að þau teikn eða stórmerki rætist og spámaðurinn eða draummaðurinn segi svo við Gyðinga; látum oss aðhyllast annarlega guði, þá skaltu ekki hlýða orðum þessa spámanns eða draumspekings, því að drottinn yðar guð freistar yðar með þessu — — — en sá spámaður eða draumspekingur skal deyja. — — Afmáið því þennan vonda úr yðar hóp."

Þetta er heldur fögur dómsástæða! Ég sleppi því að tala um það, að hér er sagt að guð freisti Gyðinga, þar sem þó svo oft er viðkvæðið, að guð freisti einskis manns. En hér er gert ráð fyrir því, að guð almáttugur útbúi mann einn spádómsgáfu eða draumspeki og mætti til þess að gera kraftaverk, og svo sendir guð hann ofan á jörðina, til þess að reyna nú að freista Gyðinga, og fá þá til að þjóna annars konar guðum, líklega til þess að hann gæti lamið á þessum börnum sínum, sem fylgdu og létu leiðast af fortölum sendiboða hans. En svo segir Móses: "en sá spámaður eða draumspekingur skal deyja." Er nú þetta réttlæti? Ástæðan fyrir því að þeir eiga að deyða hann, er sú, að hann hvatti þá til skurðgoðadýrkunar, sendur af drotni til þess að freista þeirra. Þarna segja Móseslög að deyða skuli manninn fyrir það, að hann gerir það sem drottinn almáttugur lætur hann gera. Því að náttúrlega var manninum ómögulegt annað en gera það, sem drottinn hafði honum fyrir lagt, knúði hann með almætti sínu til þess að vinna.

En svo er meira í þessum kapítula. Þar stendur og (6. v.): "Þegar bróðir þinn sammæðra, sonur þinn eða dóttir þín, eða konan í faðmi þínum, eða vinur þinn, sá sem þú elskar eins og þitt eigið hjarta, ræður þér einslega og segir: látum oss fara og dýrka annarlega guði, sem hvorki þú þekkir né þínir forfeður, þá skaltu ei fallast á þetta með honum né gegna því, auga þitt skal ekki vægja honum og þú skalt ekki skjóta skjólshúsi yfir hann af meðaumkun við hann, heldur skaltu drepa hann; þín hönd skal vera hin fyrsta til að vega að honum og þar næst hönd alls almúgans. Með grjóti skuluð þér berja hann til dauða." Þarna sýnir sig einn þátturinn þessara þriggja, sem höf. segir að gangi gegnum alla þessa löggjöf. Þarna sýnir kærleikurinn sig! Hér eru öll hin helgustu bönd mannlífsins slitin. Og menn geta með sanni sagt, að ef að þessi bönd, ef að þessar skyldur, sem Móses í guðs nafni býður að rjúfa, ef að þær eru mönnum ekki helgar, þá er þeim manni eða þeim mönnum ekk-

ert heilagt. Ef að vér eigum að fara að taka konuna í faðmi vorum eða barnið vort elskulega eða ástvininn besta og sýna þeim enga meðaumkun, heldur grýta þau til dauða, og fyrir hvað? Fyrir það að þau hvísla að oss, að þeim sé í rauninni ómögulegt að trúa þeim guði, sem vér trúum á. Setjum nú svo, að þessi ástvinur hefði horft á herskap Gyðinga, hann eða hún hefði séð borgirnar herteknar, mennina höggna, börnin stungin spjótum til bana, þungaðar mæður ristar á kvið, meyjar smánaðar, og þegar honum eða henni hefði ofboðið þessi ósköp, hefði byrgt fyrir augu sér og hvíslað í eyra vort: "Ó, guð minn góður, hvílík óskapa hryðjuverk eru þetta! Mér er ómögulegt að trúa því, að góður guð á himnum hafi boðið mönnum að gera þetta, og sé svo, þá get ég ekki trúað á þann guð. Ó, kæri vinur minn, þjónaðu ekki þeim guði lengur; komdu með mér og trúðu á annan betri guð, á guð sem er mildari og mannúðlegri." En hvísli konan í faðmi mannsins þessu í eyra honum, eða dóttir hans eða sonur eða ástvinur, þá segir Móses að hann skuli enga meðaumkun með honum hafa, heldur skuli hann deyða hann og það bæði með smánarlegum og kvalafullum dauðdaga. Getur nú nokkur maður með viti, getur nokkur maður sem ber sanngirni eða kærleika í brjósti, kallað réttláta og kærleiksríka aðra eins löggjöf og þessa? Eða ef að hún er kærleiksrík þessi löggjöf, ef að hún er guðdómleg, sem Móses segir, því að hann talar einlægt í drottins nafni, hví hafa menn hana þá ekki til fyrirmyndar enn þann dag í dag? Hví eru þjóðirnar búnar að kasta henni? Hún var lengi í góðu gengi, vér vitum það vel. Klerkar og kyrkjur héldu henni uppi. Það var rannsóknarrétturinn voðalegi, sem standa mun um aldur og ár, sem smán og svívirðing í sögu mannkynsins, sem ber vitni um það, hvað mennirnir geta orðið blindaðir og heimskir, vottur um það, hverju trúin án skynseminnar getur til leiðar komið, getur æst og hefir æst hinar grimmustu og verstu fýsnir sem til eru í eðli mannsins. Hvers vegna er það nú, að kyrkjan er hætt að halda þeim uppi til streitu þessum kenningum, opinberlega og í heyranda hljóði en í stað þess laumast með þær í skugganum og reynir að réttlæta þær með sinni sætu, sykruðu tungu, er hún segir að hinn þríþætti rauði þráður, sem gangi í gegnum löggjöf Mósesar, sé heilagleiki, réttlæti og kærleikur? Hvers vegna er hún hætt við það, ef ekki fyrir það, að hún er farin að skammast sín fyrir það, hún er farin að sjá, að siðgæðið er þó komið á *svo* háa tröppu, réttlætið og kærleikurinn hefir vaxið svo utan kyrkjunnar, engu síður en innan, að mönnum hryllir við þessu, menn mundu ekki þola kyrkjunni aðra eins svívirðing, annað eins himin hrópandi ranglæti, eins og þetta.

Ég segi að kyrkjan laumist með þetta í myrkrinu og skugganum, og byggi það ekki einungis á því, er hér stendur í fyrirlestrinum, þar sem talað er um þennan þríþætta rauða þráð, er gangi í gegnum alt Móses lögmál, heldur einnig á opinberri játning kyrkjumannanna sjálfra í heyranda hljóði, er þeir hafa játað, að þetta og annað eins væri guðs innblástur til Mósesar. Og það má sanna hvenær sem vill. (Meira.)

---

## PÁSKARÆÐA.

Flutt í Winnipeg 1894.

Eftir séra M. J. Skaptason.

---

Ég hefi tekið mér fyrir umtalsefni í dag upprisuna, upprisu Krists frá dauðum, eftir sögum guðspjallamannanna í Nýja Testamentinu, og er þá fyrst að athuga, hvernig þeir segja frá þessum mikilvæga atburði. Menn verða að veita frásögum þessum náið athygli, því að þær segja stuttlega frá þessu og því miður ber þeim ekki vel saman,—veita þeim meira athygli en menn hafa augsýnilega verið vanir að gera. Ef að menn ekki gera það, geta menn hæglega fengið rangar hugmyndir um atburð þennan, eins og svo mörgum manninum hefir hætt við. Eða til hvers er það að hafa biblíuna sem heilaga bók, bók sem menn byggi á alla sína sáluhjálparvon, ef að menn lesa þó ekkert í henni eða veita litla sem enga eftirtekt því sem í henni stendur? Ég þykist vita, að hinir háttvirtu rétttrúuðu bræður vorir hafi nýlega útlistað þetta og bygt á því alla von sáluhjálpar vorrar, alla von vora um upprisu á síðan og eilíft líf, og ég er þeim þakklátur ef þeir hafa getað fylt hjörtu manna þeirri von, að rísa upp aftur til gleði, en ekki til kvala, en það er ástæða til að athuga það lítið eitt, hvort þeir hafi lesið ofan í kjölinn.

Allir guðspjallamennirnir segja frá upprisu Krists. Ég ætla að hafa upp aðalfrásöguna. Hjá Matth. er hún á þessa leið: Að liðnum hvíldardeginum, þegar lýsti af fyrsta degi vikunnar, komu þær María frá Magdölum og hin önnur María að sjá legstaðinn. Og sjá þá varð mikill jarðskjálfti, því engill drottins kom frá himni, gekk þar að, velti steininum frá dyrum legstaðarins og settist á hann; ásýnd hans var sem leiftur og klæði hans björt sem snjór. Við þessa sýn urðu varðmennirnir svo hræddir, að þeir voru sem örendir. En til kvennanna mælti engillinn: "Ég veit að þið leitið að Jesú hin-

um krossfesta. Hann er ekki hér, því hann er upprisinn, eins og hann sagði; komið og sjáið staðinn þar sem herrann lá. Farið með skyndi og segið lærisveinum hans að hann sé upprisinn frá dauðum, og sjá, hann fer á undan yður til Galíleulands, og þar munuð þér sjá hann; sjáið, ég hefi sagt yður það." En þær gengu skyndilega út úr gröfinni bæði hræddar og glaðar mjög, og hlupu til að flytja lærisveinunum þennan boðskap, og er þær voru á leið komnar til að segja lærisveinum hans frá þessu, kom Jesús móti þeim og sagði: "Sælar verið þið." En þær gengu til hans, föðmuðu fætur hans og veittu honum lotningu. Þá sagði Jesús við þær "Hræðist ekki, farið og segið bræðrum mínum að þeir skuli fara til Galíleulands og þar sjá mig."

Þetta er nú ein aðalfrásagan um upprisu Krists. Þessar frásögur hafa verið látnar gilda sem guðdómlegur innblástur því nær 1800 ár, hver fyrir sig innblásin, en hvað sjáum vér þegar vér förum að íhuga þær? Ég veit ekki hvort ég á að biðja afsökunar fyrir að hreifa við þeim, en ég hefi sannarlega ekki tekið þær saman, ég get ekki gert við því, hvernig þær eru úr garði gerðar. Vér sjáum fljótt að þeim ber ekki saman í mörgum atriðum. Þeim ber ekki saman um, hve margar konurnar hafi verið; ekki um englana, hvort þar var einn eða fleiri; ekki um það hvort steininum var velt frá eða ekki; ekki um það, hvort þær sáu Krist upprisinn eða ekki; ekki um það, á hvaða tíma þær komu að gröfinni; ekki um það, hvort þær hafi snert Krist eða ekki; ekki um það, hvað Kristur hafi sagt við þær.

Þetta er hið helsta sem frásögum þessum ber ekki saman um, og er þó margt fleira athugavert við þær, sem ég sleppi í þetta sinn.

Matth. segir, að konurnar hafi verið tvær, María frá Magdölum og hin önnur María. Mark. segir að þær hafi verið þrjár, María frá Magdölum, María Jakobsmóðir og Salóme. Lúkas segir að þær hafi verið margar. En Jóh. segir að það hafi verið María frá Magdölum ein. Ekki einum þeirra ber saman við annan. Vér skulum nú hugsa oss, að mál hefði verið borið fyrir dómnefnd um, að maður hefði verið myrtur í húsi einu um sólaruppkomu í morgun. "Hverjir sáu það?" spyr dómarinn. "Við horfðum á það báðar, hún María og ég," segir kona ein, "við vorum tvær einar í húsinu." "Ekki er það nú alveg satt," segir Salome, "því að ég var einmitt inni í herberginu hjá ykkur og sá það líka." "Víst ekki," segir þá Jóhanna, "Salome var þar ekki, en þær Maríurnar voru þar báðar og ég og margar konur fleiri og við sáum það allar." Þá kemur María fram sem til þessa hafði þagað, og segir: "Sannleikann er bezt að segja;

engin ykkar var inni í húsinu, ég var þar ein hjá manninum, þegar óvinur hans kom og myrti hann, ég ein sá það en engin hinna." Hvað ætlið þér nú að dómnefnd eða dómari mundi gera við aðra eins vitnaleiðslu? Svo kemur nú frásagan sjálf. Matth. og Mark. segja að konurnar hafi séð einn engil; Lúk. og Jóh. segja að englarnir hafi verið tveir. — Þá segir Matth. að konurnar hafi séð engil koma af himni, er þær komu, og ganga að steininum og velta honum frá og kom þá jarðskjálfti mikill. Hinir þrír guðspjallamennirnir geta ekkert um neinn jarðskjálfta og segja, að búið hafi verið að velta steininum frá grafarmynninu er þær komu að. Matth. segir, að konurnar hafi mætt Jesú og hafi faðmað fætur hans. Markús og Lúkas minnast ekkert á það, en geta þess, að María frá Magdölum, sem búið var að reka út af sjö djöfla, hafi séð hann. Jóh. þar á móti segir, að María ein hafi séð hann, og haldið að hann hafi verið grasgarðsmaðurinu. Segir Jóh. að Kristur hafi bannað henni að snerta sig og getur hún þá ekki hafa faðmað fætur hans, því síður báðar nöfnurnar. — Og hvaða dómnefnd mundi svo festa nokkurn trúnað á slíkum vitnisburðum?

Vér sjáum af þessu, að því er eins varið með nýjatestamentið eins og hið gamla. Guðspjallamaðurinn Matth. getur ekki sagt guðdómlega satt, ef að Markús segir guðdómlega satt, o. s. frv., og svo er um þá alla. Ef að einhver einn þeirra er guðdómlega innblásinn þá hljóta hinir allir að hafa rangt fyrir sér þegar engum þeirra ber saman. En ef að vér gætum betur að, þá sjáum vér hvernig í þessu liggur. Enginn postulanna, sem um þetta skrifa, var sjónarvottur að þessum atburði sem þeir skrifa um. Ekkert guðspjallanna er skrifað fyr en 70 árum eftir Krist, í fyrsta lagi, meira en mannsaldri eftir dauða hans. Atburðir þessir eru allir teknir eftir sögusögnum annara. Nú vitum vér hve fréttir færast úr lagi sem ganga manna í millum í nokkrar vikur, eða nokkra mánuði, hvað þá heldur um fleiri tugi ára. Hugsið yður hvernig yður mundi ganga að segja frá einhverjum merkisdegi í æfi afa yðar eða ömmu, sem dáin væri fyrir einum 40 árum. Hvernig færuð þér að lýsa því, hvað gerst hefði á hverri stundu, þessa dags, ef að þér ættuð að reiða yður á minni og munnmælasagnir að eins? Ætli þér þyrftuð ekki að skapa inn í einhversstaðar?

En ég fyrir mitt leyti legg ekki neina sérlega áherslu á þetta. Þó að öllum guðspjallamönnunum hefði borið saman upp á staf, þá hefði mér hvorki fundist það gera til né frá. Það er annað, sem ég hefði rekið augun í, en það er *engillinn og upprisa líkamans*. Ég hefi miklar mætur á englunum í mannsmynd, þ. e. góðum og göfug-

um mönnum, ég elska þá. En þessa engla, sem koma af himnum ofan og eta kjöt og brauð, eða hnoðast við að velta steinum, eða æra menn o. þvl., ég get ekki liðið þá. Þeir eru leifar af náttúrudýrkun, þegar menn trúðu því, að englar væru í hverju tré, í hverjum stórum steini, í hverri á, í vindinum, regninu, þrumunni, eldingunni, í hólum og lækjum og í dýrum. Það úði og grúði af þessum englum hjá Austurlandaþjóðum, í Brahamatrúnni, Persatrúnni og Mahómetstrúnni. Mahómet sá engla svo stóra, að 70 dagleiðir voru milli augnanna á einum þeirra. Englarnir sem látnir eru koma fram í trú Gyðinga, í ritningunni og í trú kristinna manna, komast ekki í neina líking við þá. Það er auðséð, að þessir englar í ritningunni eru leifar af hinum fyrri; trúnni á þá hefir hrörnað, og nú er hún alveg að deyja út og er dáin út hjá öllum mentuðum mönnum. Þegar því engill kemur fyrir í frásögu einni, þá er það mér óræk sönnun fyrir því, að eitthvað sé bogið við þessa frásögu. Hún er þá að meira eður minna leiti hugarsmíði; því að það getur hver maður séð, að þetta er brot gegn lögum náttúrunnar, en ég trúi því með engu móti, að skaparinn þurfi að brjóta sín eigin lög. En svo er annað, og það er upprisa líkamans. Ég er ekki að hafa á móti því, að Kristur hafi upprisið, því að það er trú mín, að vér allir eigum að upprísa, allir að lifa eftir dauðann. En upprisu líkamans er mér alveg ómögulegt að trúa, hversu feginn sem ég vildi. Vér vitum það allir, að undir eins og maðurinn er dáinn, fer hann að rotna, að leysast upp, efnin í honum fara að breiðast út aftur í náttúruna, sum verða að lofti, sum að moldu, sum að málmum. Þau flytjast yfir í grösin, út í loftið, í vatnið í jörðunni, yfir í aðra líkami.

Ég hefi einhverstaðar lesið sögu um merkan mann, í austurlöndum held ég. Það var mesti maður, einhver konungur, sem gerði öllum gott og þjóðin elskaði hann mikið. Á sínum tíma dó hann og var grafinn, og var svo plantað tré eitt á leiði hans. Nokkrum árum síðar kom mönnum til hugar, að flytja lík hans til musteris eins og búa því þar dýrðlegri legstað. Svo fóru menn að grafa upp kistuna, en þegar að henni kom var hún brotin upp. Eikin sem plöntuð var á gröfinni hafði brotið hana; hún hafði sent rótaranga í gegnum rifu á kistulokinu, og svo þegar rótin þroskaðist, þá sprengdi hún lokið. En líkið — það var horfið úr kistunni. Eikin hafði etið það; rótaranginn litli hafði dregið í sig öll efnin úr líkamanum og flutt þau upp í tréð og nú var líkaminn orðinn að trénu, að blómum á því og eplum, og ormarnir höfðu étið sum blöðin af því og dýrin suma kvistina, og mennirnir höfðu borðað eplin, svo að lík-

ami konungsins var nú kominn þarna í tréð og í dýrin, orðinn að ormi og nokkuð að manni.

Þetta sýnir glögglega hvernig efni líkamans breytast. Og þegar því verið er að tala um, að líkami manns eins hafi upprisið, þá er það mér sönnun fyrir því, að annað hvort sé saga þessi tilbúningur, eða þá að maðurinn hafi aldrei dauður verið.

Klerkar og kennilýður hafa vanalega staðið fast á því, að ef að líkami Krists hafi ekki upprisið, þá sé óhugsandi upprisa annara, en þetta er alveg rangt. Í mínum augum getur það ekki haft nokkur hin minstu áhrif á mína upprisu. Vér skulum nú hugsa oss í sporum þeirra hinna svokölluðu "rétttrúuðu" manna, sem trúa því, að Kristur hafi verið guð sjálfur, að þessi guð hafi dáið, verið að rotna í þrjú dægur, en risið síðan upp til lífsins fyrir sinn guðdómlega kraft. Ég sleppi því að tala nokkuð um það, hvort guð geti dáið, en setjum nú að hann einu sinni sé dauður, hvaða áhrif hefir það á upprisu vora þó að guð upprísi? Líkamir vorir eru ekki guðdómlegir, þeir rotna í sundur, efni þeirra fara út í loftið, í vatnið, í moldina, í grösin, í dýrin og í mennina aftur. En það kemur ekki til þessa og ég fyrir mitt leyti hefi aldrei bygt von mína um upprisuna á Krists upprisu hinni líkamlegu. Þegar á barnsaldri var mér sagt, hvernig líkamir manna rotnuðu, hvernig efnin færu út í loftið og grösin og svo úr þeim í dýrin og mennina; og síðan hefir mér aldrei komið til hugar að trúa upprisu líkamans, enda hefði mér verið það ómögulegt. Hitt er alt annað, hvort sálin kunni að geta tekið á sig líkamlegan búning, líkan þeim sem maðurinn hafði hér á jörðu.

Ég fyrir mitt leyti þarf ekki að fara í fornar sögur, ég þarf ekki að fara að ofbjóða skynsemi minni til þess að trúa því, sem ómögulegt er að trúa, eigi maður að halda viti sínu óskertu, til þess að trúa því, að sála mín upprísi og að ég fái að sjá þá aftur, sem ég elskaði best, föður eða móður eða systkin, eða leikbróður eða æskuvin, eða barnið mitt sem ég elskaði mest, sem var okkar hjónanna mesta líf og yndi, svo fríð og svo góð og svo gáfuleg og ástrík, en sem dauðinn tók svo skyndilega úr faðmi okkar. Nei, það er langt frá að svo sé. Hvar sem ég sit eða stend eða geng, eða renni augum mínum, eða hvarfla huga mínum yfir heiminn, yfir náttúruna, út í geyminn, til sólkerfanna um hið óendanlega rúm, þá minnir þetta mig á annað líf, á það, að sál mín eigi upp aftur að rísa. Líti ég eikina í skóginum, eða grasið á enginu eða blómið, þá sé ég hvernig það deyr og rotnar, en svo lifnar það við að nýju og verður að fögru blómi eða hávaxinni eik. Horfi ég á hið æðandi haf, þegar stormurinn reyfir upp risavaxnar holskeflur og aldan veltist áfram geysi-

lega þung, uns hún brotnar á ströndinni, en loftið skelfur og drynur og jörðin sjálf titrar af hinum feiknalegu átökum, þá minnir það mig á eilífðina, á kraftinn, aflið, sem aldrei deyr, sem breytist úr einni mynd í aðra en aldrei getur orðið að engu. Enn þá ljósara er það þegar ég horfi á ljósgeislann inn um gluggann, eða eldglæðurnar í ofninum hjá mér, þar er það svo ljóst hvernig viðurinn breytist í loga og hita. Ekki ein einasta smáögn af eldiviðnum verður að engu, heldur breytist það alt í önnur efni, sem sum fara út í loftið, en sum verða eftir í öskunni, Þó er ekkert jafnsterk sönnun fyrir mér um annað líf, eins og þegar ég hugsa um kærleikann, sem menn bera hver til annars, eða er ég hugsa til ranglætisins, sem einlægt viðgengst meira og minna í heiminum. Þegar ég horfi á börnin mín, sem ég elska svo innilega, þá dylst mér það engan vegin, að þau eiga fyrir höndum líf eftir þetta. Þessi neisti guðdómsins sem í þeim býr, getur ekki að engu orðið, það er ómögulegt fyrir mínum augum og óhugsandi. Ég veit vel hvað af líkama þeirra verður; hann leysist upp og fer út í náttúruna aftur; en þau hafa meira en líkama, þau hafa líka sál, sem ekki getur að engu orðið fremur en krafturinn eða kletturinn eða tréð, eða dýrið; þau hafa sál sem elskar og vonar og stríðir og vinnur, þau hafa sál, sem einlægt þroskast frá vöggunni til grafarinnar — til þess að deyja? Nei, einmitt til þess að lyftast á hærra stig, til þess að þroskast enn meira, komast enn nær guðsríki. Eða vinurinn sem ég elskaði; ég varð að sjá af honum, ég horfði á hann lagðann í gröfina, ég hlustaði á hvernig moldin skall á kistunni og það fór um mig hrollur, ég saknaði hans svo, mér fanst sem hjartað væri slitið úr brjosti mér, það var eins og hver ein taug mín nötraði og skylfi, er hinn ástkæri líkami vinar míns var látinn síga ofan í hina dimmu gröf og svo kastað ofan á hann moldinni. En það var ekki sálin sem þarna var verið að grafa, og það huggaði mig, því ég fann það svo vel í hjarta mínu, að sála hans var nú orðin laus við þessa fjötra, að hann lifði annarstaðar, og að þar mundi ég fá að sjá hann aftur. Ást mín fylgdi honum yfir um, og sála mín hefði fegin viljað vera komin þar með honum, en hinir jarðnesku fjötrar öftruðu því og glöftu sjónina.

Nei, úr því að sálin einu sinni er til, þá getur hún ekki að engu orðið. Þessi kærleikur sem nær yfir gröf og dauða, hann sannar mér það, að sála mín eigi upp aftur að rísa.

Eða ranglætið í heiminum. Ég tala eigi um það, þegar menn með eigin breytni sinni baka sér eitt eður annað ilt, þegar menn brjóta lögmál guðs og náttúrunnar og hljóta svo að taka hegningu fyrir, heldur óverðskuldað ranglæti. — Þegar t. d. einhver herkon-

ungurinn fer í blóðug stríð, veður inn á lönd annara og eftir einhvern blóðugan bardagann, eru bæirnir brendir, íbúarnir deyddir börnin tekin úr fangi mæðranna, slitin frá brjóstum þeirra og kvalin og pínd fyrir augum þeirra. Hugsum oss borg eina í logandi báli, þarna krýpur móðir ein yfir líki mannsins síns með barnið á brjósti sínu, húsið er brent, faðir, móðir, bróðir, eiginmaður, öll liggja þarna dauð; hún hefir horft á hina vígóðu hermenn höggva eitt barnið hennar á fætur öðru, og nú loks taka þeir barnið af brjósti hennar, stinga lensunum í líkama þess og kasta því á eldinn, hlægja svo að hljóðum þess, þangað til loks dregur af þeim og barnið deyr. Haldið þér að þessi hljóð skeri ekki hjarta móðurinnar? Og svo taka þeir hana og svívirða hana á eftir. Og oft og mörgum sinnum hefir þetta verið gert til þess, að útbreiða kristnina, til þess að fá menn til að trúa á endurlausnina, á upprisuna, á bókstaflegan innblástur, á díkið sem vellur af eldi og brennisteini, á djöfulinn, sem kvelur alla þá eilíflega sem ekki geta trúað þessu. Það hefir verið gert í guðs nafni og honum sungin dýrð og heiður af skrúðbúnum klerkum og biskupum, meðan þessi hryllilegu verk voru unnin.

Haldið þér nú virkilega að guð láti þetta viðgangast svo að móðirin fái engin laun, enga uppbót á öllum sínum kvölum? Gat hún gert við því að hún var fædd á þessum tímum? Eða haldið þér að morðingjar þessir fái enga hegningu? Hér í lífi fá þeir oft fé og sæmd, en hinumegin—á það ekkert að vera? Eiga þeir að sleppa með þetta? Þetta er oft gert í guðs nafni. Nei, ég segi yður það satt, að skaparinn lætur það ekki svo til ganga. Hann væri meira en óttalegur guð ef að svo væri. Hann væri þá miklu verri en mennirnir nú eru, sem alla hryllir við þessu.

Nei, sannarlega bendir alt á það, að til sé heimur eða líf eftir þetta, þar sem ranglætið fái sína hegningu, en kærleikur dygð og réttlæti sín laun. Sköpunin, heimurinn, tilveran, bendir mér á annað líf, á guð, sem ekki getur verið guð hinna dauðu, heldur guð hinna lifendu. Ég sjálfur er sönnun fyrir því; það að ég er til, er hérna á þessum stað og þessum tíma, verkin sem ég vinn, hugsanirnar sem ég hugsa, vonirnar mínar, kærleikurinn sem ég ber í brjósti,—alt þetta sýnir mér, að þó að sálin skilji við líkamann, þá geti hún ekki dáið, heldur hljóti að lifa eftir þetta líf. Engum einasta heilvita manni er mögulegt að hugsa sér, að heimur þessi sem vér sjáum, taki þannig enda, að hann verði að engu. Jörðin getur kólnað svo að dýr og menn og allur jarðargróður deyi út á henni, hún getur öll orðið að ískúlu; hún getur einnig sprungið í sundur fyrir einhver náttúru-umbrot og dreifst út um geyminn; hún getur

brunnið upp í báli. En hún getur aldrei að eilífu að engu orðið; og svo er um aðra heima. Og eins og því er varið með líkama mannsins, eins og því er varið með efnin og aflið, þannig er því og varið með sálina. Oss er ekki mögulegt að hugsa oss, að hún verði að engu, úr því vér einu sinni erum búnir að játa, að hún sé til, úr því vér játum, að vér höfum nokkra sál, en séum ekki eintómur líkami, dauður og líflaus..................

---

## SKÓLAMÁLIÐ.

Baráttan um skólamálið svokallaða í Manitoba hefir vakið upp vofur hér og hvar. Í Bandaríkjunum hafa menn sumstaðar hlaupið upp til handa og fóta og talað um að hleypa af stokkunum nýrri biblíu, sem kennast kyldi þar í almennum skólum. Ritningu þessa ætla þeir að gera þannig úr garði, að sleppa úr henni öllum þeim köflum, sem nokkur ágreiningur er um milli trúarbragðaflokkanna. Þetta alt saman ætla þeir að strika út, en það sem þá verður eftir, hið guðdómlega orðið, sem enginn trúflokkur álítur guðdómlegt, það ætla þeir að kenna börnunum á skólunum. Eftir skoðun trúmannanna sjálfra, taka þessir menn kjarnann úr og kasta honum, því að það sem trúflokkarnir rífast mest um, er einmitt það, sem hver álítur guðdémlegast, það hið sama álítur einhver annar flokkur helbera vitleysu. En þetta úrval, það er ómögulegt, af þeirri ástæðu, að enginn trúflokkur kæmi sér saman við annan. Vér viljum hér minnast úrskurðar æðsta dómstóls í ríkinu Wisconsin fyrir fimm árum síðan, um að útiloka ritninguna úr skólum ríkisins. Dómurinn var einkum bygður á því, að í biblíunni kæmi fram kenningar um annað eins og guðdóm Krists, um eilífa fordæming syndaranna og um völd og myndugleika prestanna, um hið bindandi afl sakramentanna og margt fleira, er flokkana sérstaklega deildi á um. Fyrir því væri ómögulegt að hafa ritninguna sem kenslubók, er svo væri deildar skoðanir um hana.

Allir sannir vinir skólanna fögnuðu dómi þessum. Þetta frjálsa og farsæla land heyrir engum trúflokki til. Það er jafnt þeirra sem trúaðir eru eða trúlausir, og þegar einhver trúflokkur eða allir trúflokkar til samans leggja hendur á skólana og heimta, að hin eður þessi útgáfa ritningarinnar sé lesin í þeim, þá er réttlætið fótumtroðið og mannréttindunum misboðið. Menn ættu að þekkja sögu mannkynsins svo vel, og muna eftir öllum ofsóknunum og hinum blóðugu

styrjöldum, sem háðar hafa verið um biblíuna, til þess að sjá, hvílíkur ófögnuður það væri, að hleypa öðrum eins varg í véum inn í skólana, eins og biblíunni.

Það er svo fyrir að þakka, að allur þorri manna er farinn að sjá það, að hin fyrsta skylda manna við mentunina er, að útiloka trúmál með öllu úr skólum ríkjanna, svo að allir flokkar geti notið þeirra jafnt, og ég hygg að enginn skynsamur maður, sem treyst hefir guði og sannleikanum, hafi nokkurn tíma efað það. Siðgæði þjóðanna, hugmyndir þeirra um réttlæti, heiður, skyldur, hreinskilni, um hið góða og fagra byggist ekki á neinni bók. Þessar hugmyndir hafa orðið til fyrir menningu mannfélagsins. Það er jafnómögulegt að binda siðgæðishugmyndir manna við bók eina, eins og að binda hugsanir manna, ástina, samviskuna, sönglistina, málaralistina við bækur. Hugmyndir manna um rétt og rangt, hin gullna regla: "alt sem þér viljið að aðrir geri yður, það skuluð þér þeim gera," byggist ekki á neinni bók, það var til í hjörtum manna löngu áður en nokkur bók var til. Og þó að hver einasta bók, hver einasta kyrkja, hver einn einasti prestur væri brendur og grafinn, þá lifði þó sálin með öllum sínum hugmyndum, öllum sínum vonum, öllum sínum kröftum, andlegum og siðferðilegum.

Svo er og hitt, að það er ekki jafnrétti að leyfa einni biblíu inngöngu í skólana en útiloka allar aðrar. Því þá ekki leyfa þar kenslu eftir bókum Confuciusar, eftir ritum Buddhista, eftir Zend Avesta, eftir kóraninum? Þetta eru alt biblíur eins og biblía Gyðinganna.

Það er eingöngu með því að hafa skólana trúlausa, að jafnrétti verður á komið. Þá er enginn trúflokkur smánaður, engin trúskoðun í háði höfð, ekki unnið á móti nokkurs manns eða nokkurs flokks sannfæringu. Enda er nú farið að verða fullbjart í skólum Canadaríkis til þess, að hafa þar um hönd eina eður aðra af biblíum þjóðanna.

---

## Heiðruðu kaupendur.

Með þessu blaði hefur þá DAGSBRÚN hina fjórðu ársgöngu sína. Fyrir óhjákvæmilegar orsakir er hún æði seinförul í þetta skifti; en vér skulum áreiðanlega bæta það upp áður en árið er alt, svo að kaupendur missi einskis í.

DAGSBRÚN hefir átt við allmikla erfiðleika að stríða frá fyrstu byrjun; hún hefir alt af verið í fjárkröggum, eins og eðlilegt er með blað í byrjun, sem enga aðra tekjugrein hefir, en áskriftargjöld frá kaupendum. Og svo hafa allmargir hinna "sannkristnu" kyrkjumanna hatað hana af öllu hjarta frá byrjun. og reynt með öllu móti að kasta steinum á götu hennar Þeir skyldu það vel, að þá var meiri von um framför og þroskun þessa "nýja siðs" meðal Íslendinga, er þeir hefðu sitt eigið málgagn og merkisbera út af fyrir sig. Og þeir hafa heldur ekki legið á liði sínu með að skaða Dagsbrún, — þessa "guðlastandi viðurstygð," sem ritstj. "Sameiningarinnar" hefir mildilegast þóknast að kalla hana opinberlega. En þó hafa þeir mest og bezt rækt þessa "köllun" sína leynilega, — á málskrafsþingum, við kaffidrykkju og á knæpum við staupaglam. Þetta er alls ekki sagt út í bláinn, og vér getum fært orðum vorum stað hvenær sem er.

En þrátt fyrir allar slíkar tilraunir þessara heiðursmanna, hefir þó Dagsbrún náð æðimikilli útbreiðslu og þó ekki nærri eins mikilli og vér hefðum óskað, því vér mundum auðvitað helst kjósa að allir Íslendingar keyptu Dagsbrún.

Vér vitum vel að Dagsbrún á fjölda marga vini og stuðningsmenn víðsvegar þar sem Íslendingar búa, og það er til þessara manna, hvar sem þeir svo eru, að vér sérstaklega beinum þessum línum, og vér skorum á þá, að liggja nú ekki á liði sínu, en veita blaðinu svo traust og drengilegt fylgi, sem kringumstæður þeirra leyfa. Ef hver einn þessara vina vorra legði hönd á plóginn og útvegaði oss einn eða fleiri nýja kaupendur, þá mundi framtíð blaðsins vel borgið.

Rúmið leyfir ekki, að meira sé sagt um þetta mál að þessu sinni, enda ætti þess ekki að þurfa. Að eins viljum vér geta þess, að 1. Febr. þ. á. átti Dagsbrún útistandandi hjá kaupendum $150.00 fyrir síðastl. (3.) árgang, og er það stærri upphæð en vér þolum svo til lengdar láti. ÚTGÁFUNEFNDIN.

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri : MAGNÚS J. SKAPTASON.
648 William Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður : MAGNÚS PÉTURSSON.
709 Alexander Ave. — Box 305.

HEIMSKRINGLA PRTG. & PUBL. CO.